**Hugvekjur. Lífsreglur. Heilræði.**

í

sundurlausum greinum.

# NÝÁRSGJÖF

**1851**

handa **Íslendingum,**

frá

*ábyrgðarmanni Þjóðólfs.*



Prentuð í prentsmiðju landsins.

1850.

*Sá, sem ekki vill kaupa góð ráð fyrir lítið, skal kaupa sára iðran dýru verði.*

---

Stundirnar hafa vængi, og fljúga upp til gjafara tímans.

Þó að hver maður viti, að í einni klukkustundu eru 60 mínútur, sýnist samt sem fáir gæti þess, að 60 þessir örstuttu mælirar tímans gjöra eina klukkustundu.

Vertu ekki háreistur, þegar þú leggur fyrst af stað, þú getur æfinlega hækkað á þjer risið með sóma, en lækkað það aptur getur þú ekki án minnkunar.

Það er miklum mun hægra, að kefja niður hina fyrstu óhreinu girnd, heldur en að seðja allar þær, sem á eptir koma.

Sannleikurinn bíður opt meira tjón af ákefð meðmælanda, en ástæðum mótmælanda.

Þegar vjer rjettum hendina að vini vorum, ættum vjer aldrei að kreppa hnefann áður.

Hrekkjavit í heimskum manni er hárhnífur í höndum óvita.

Fólgið hatur er hættulegra, en ber fjandskapur.

Illgirnin drekkur að mestu leyti upp sitt eigið eytur.

Á þá, sem hlusta á sjálfa sig, vilja ekki aðrir hlusta.

Skeyti bakmælginnar falla máttlaus niður fyrir fætur dygðarinnar.

Eyðsluseminni er optar samfara ágirnd, en eðallyndi.

Sá, sem ber það mjög illa, ef hann mætir ekki velgjörðum, reynist óþakklátur, ef honum veitast þær.

Ef hjartagæzka og mannúð býr inni fyrir hjá oss, þurfum vjer sízt að kvíða hættu utan að oss.

Fáir lestir fylgja góðgirni, færri dygðir singirni.

Kæti heimskingjanna setur í mann ólund.

Varastu jafnt fljótlegan vin og langrækin óvin.

Fátækur andi er snauðari en fjelaus pýngja.

Það er ekki eins torvelt, að láta lífið fyrir vin sinn, eins og að finna þann vin, sem er verður þess, að lífið sje látið fyrir hann.

Ef þú ert fríður sýnum, þá láttu sjást eptir þig fögur verk; sjertu það ekki, þá bættu upp brest náttúrunnar með dygðum þínum.

Þögn er vissari en sögn, þegar óvinir vorir heyra til.

Þagmælska er kostur án hættu, og fjársjóður án fjandmanna.

Hugsanir eru blómstur sálarinnar, og orð ávextir girndanna.

Þeir, sem freista einkis sjálfir, hugsa að allt sje hægðarleikur, og álíta það allt illt, sem ekki getur heppnast.

Maðurinn er eina dýrið, sem veitt var að geta hlegið; þó er hann, ef til vill, sá eini, sem er hlægilegur.

Svikull vinur er eins og skuggi á sólspjaldi: hann sjest í heiðríku veðri, en hverfur, ef ský dregur fyrir.

Tortryggna menn skortir aldrei hugarburð, til að ala á grunsemi sína.

Einfaldur sannleiki þarf aldrei við tvöfaldra vitna.

Sá, sem hugsar um, áður en hann ræzt í, afrekar fyr, en hann hugsar til.

Að vera engum til gagns, er að vera öllum til ógagns.

Bitt aldrei vináttu við neinn mann, fyr en þú veizt, hvernig honum hefur farizt við fyrri vini.

Eins og sálin á að stýra handbragðinu, svo skal hygginn maður stjórna vinnubrögðum.

Hrein trú er bezta guðfræðin, hófsemi bezta læknisfræðin, og góð samvizka bezta lögfræðin.

Auðsgnótt er armæða, skortur eymd, og hár sess þung byrði; en daglegt brauð er sönn sæla.

Þegar sálin er þreytt, þá ætti líkaminn að starfa.

Aldrei blómgaðist það ríki lengi, hvar barnauppheldið var vanrækt.

Gleðilaust líf er dauðans líf.

Það er þolanlegra, að vera ætíð einsamall, en vera það aldrei.

Það er ekki gnægð rjettanna, heldur glaðværð gestanna, sem gjörir veizluna góða.

Hófsamur maður líður hóglega í gegnum skeið lífsins, eins og fiskur í hægum og tærum straumi.

Vondir menn tala heldur um það, sem þeir óska eptir, en um hitt, sem þeir trúa, eða vita.

það er dygð, að varast löst, og upphaf vízku, að verða laus við heimsku.

Sjerhver maður tekur hlutdeild í þeim heiðri, sem veitist hinum verðugu.

Sá, sem ekki getur yfirstígið ójöfnuð, liggur undir sjálfum sjer.

Heiður hermannsins er eins viðkvæmur og tæpur, og kvennamannsins — hann þolir enga grunsemi.

þekking án dygðar er ekki annað, en vanþekking með lærdómi.

Vjer erum allt of ósparir á tímanum, þar sem þó allt vort lífskeið er eigi nema lítið stundarkorn.

Ef þú vilt verða virtur og vel metinn, þá uppfræddu börn þín vel, og taktu svo hlut í góðverkum þeirra.

Lærdómur upp vekur og rótfestir í sálum vorum þær hreinu og inndæln tilfinningar, sem sönn dygð er fólgin í.

Heimskunni verður aldrei við hjálpað, hún er skekkja sálarinnar, sem eigi verður fremur lagfærð, en skekkja líkamans.

Lögin geta ekki sannfært þar, sem þau ekki ná til að heggna.

Leiddu hjá þjer litla mótgjörð, og mun hún verða því minni.

Lífið er of stutt til þess, að það hafi afgangs tíma til fjandskapar.

Enginn vorkennir uppgerða sorg.

Óðar en vjer hættum að vera til gagns, verðum vjer sjálfum oss til byrði; hver skyldi því vilja vera iðjulaus!

*því fleiri sem eru í sökinni saman, þess ljettar bera þeir svívirðing glæpsins, því sætt er sameiginlegt skipbrot.

Iðjuleysið niðurbrýtur grundvöll sjerhverrar dygðar, og steypir yfir oss stórflóði eymda og ódygða.

Störf eru manni ómissandi: ef þau eru geðfeld, er það ánægja, ef þau eru nytsöm, er það sæla.

þar vantar ekkert sem hyggindin mega ráða.

Engin fyrirhöfn er of mikil til þess að uppgötva sannleika.

Sá er enginn sjálfráður, sem ekki getur stjórnað sjálfum sjer.

Óeinlægur vilji ber óarjófsamt fræ.

Í einveru er ekkert dýr eins huglítið, og maðurinn, í samfjelagi ekkert hugrakkara.

Góð samvizka er sá dýrgripur, sem enginn má án vera, meðan hann lifir.

Vjer ávinnum eigi annað með ósannsögli, en þau vandræði, að oss er ekki trúað, þegar vjer segjum satt.

Eins og tortryggilegt gull reynist í eldi, eins þekkist bezt trúfesti vináttunnar á tíma neyðarinnar.

því hærra sem maðurinn situr í tign, þess minna frelsi hefur hann í raun og veru.

Sakleysi og laumpukur lifir sjaldan lengi saman.

Kenndu það ekki öðrum, sem þú trúir ekki sjálfur.

Sá, sem hæðir fátækan, ásakar skaparann.

Ötular og öflugar sálir geta hvorki, nje mega halda kyrru fyrir, meðan æskufjörið varir.

Margfjöldi bóka truflar sálina, og eigi er mikilla verulegra nota að vænta af margbreyttum lestri.

Hve margir eru þeir kennimenn, sem tala síður af tilfinningu hjartans, en af fyllingu minnisins!

Ánægja skilníngarvitanna er blómstur, hvers ylmur rýkur hastarlega burt, og hvers glæsta fegurð fölnar í höndum þess, sem fær það fyrstur.

Mesti maður má ekki án vera hins lítilmótlegasta, meðan hann lifir.

Iðjulausar stundir líða seint og leiðinlega, og draga með sjer óhroða og rusl.

Sú reiði á sjer enga vörn, sem sjeð hefur tvær sólir.

Sá, sem getur sigrað vilja sinn, er herra yfir sjálfum sjer.

þekking, sem ekki er samfara rjettvísi, er slægð, og hugrekki, sem ekki stjórnast af skynsemi, er fífiska.

Lærdómur er stýri æskunnar, huggun ellinnar, og vissasti leiðtogi til heiðurs og mannvirðinga.

Láttu ekki mótlætið lama vængi vonarinnar, nje meðlætið myrkva ljós forsjálninnar.

Nauðsynlegast af öllum vísindum er, að læra það, að geyma sjálfan sig óflekkaðan af vondu eptirdæmi

það er fyrsta atriði vizkunnar, að þekkja sjálfan sig.

Láttu hjarta þitt vera læst, en ásýnd opna.

Sá er enginn rjettlátur, sem eigi vill gjöra hvað rjett er, nema sjer til hróss.

Sá, sem ekki fer batnandi, er viss með að fara vesnandi.

Aðalkostur ungbarnsins er sakleysi, æskumannsins kurteysi, fullorðna mannsins atgjörfi, og gamalmennisins hyggindi.

Drykkjurúturinn er eins og líkneski, sem staðið hefur úti í óveðri, öll mannsmynd er máð í burt.

Skrifuð lög ættu að vera undir stjórn skynseminnar, en skynsemin ætti ekki að vera fjötruð af bókstaf orðanna.

Væntu aldrei mikils af stærilátum raupara.

Enginn er rjettilega hygginn og óhultur, nema dánumaðurinn.

Dygðugt líf er varanlegasti minnisvarðinn.

Reiddu þig ekki á þann mann, sem lofar þjer með særi.

það er hægt fyrir þann, sem sjálfur er sloppinn úr torfærunni, að ráðleggja þeim, sem staddir eru í henni.

það er maður ósvífinn, sem lætur fjeskort og fávizku reisa sjer hurðarás um öxl.

Hatur gegn vildarmönnum sprettur af löngun eptir hylli höfðingjanna, og er öfund í dularbúningi.

Ef þú ert í efa um, hvort áform þitt er gott, eður illt, þá slepptu því.

þar sem fjársjóður vor er, þar er hjarta vort einnig.

Sæll er sá, sem á engu á von, því honum getur ekki vonin brugðizt.

Án samkomulags er engin ánægja í sambúð.

það er hið fyrsta stig til framfara, að vera sannfærður um, að vjer þurfum þeirra með.

þær hugsanir vorar eru optast ágætastar, sem koma óbeðnar, og eins og þær drjúpi inn í sálina.

Fórnaðu á altari náttúrunnar, og forðastu útúrdúra vanans.

þeir, sem hafa lengi lifað og hrærzt í hjegómanum, losna varla nokkurn tíma við hann.

Sá, sem er hygginn í smámunum, reynist ekki heimskur í meiri efnum.

Tortrygg alla þá, sem láta mjög dátt að þjer fyrir lauslegan kunningsskap, og án nokkurrar vitanlegrar orsakar.

Sannfærðu bettlarann og flækinginn um það, hver maður hann sje, og skaltu sanna, að hann óðar skiptir háttum sínum.

Af öllu því andstyggilega illgresi, sem kviknað getur í hjarta æskumannsins, er hræsnin banvænust.

Ekkert illverk getur verið vel gjört, en góðverk getur verið illa gjört.

Kauptu fyrir peninga út í hönd, ef þú vilt lifa í friði.

þar sem hugvit er á reiðum höndum, ætti góð greind að vera nærri.

Áður en vjer óskum þess með ákefð, sem annar hefur, ættum vjer að ransaka, hversu sá er sæll, sem þess nýtur að.

þó að hygginn maður hafi hnefann fullan af sannleika, þá lætur hann sjer opt nægja, að opna einungis litla fingurinn.

Hvort sem þú hefur fyrir stafni mikið eða lítið, þá láttu hverja stund hafa sitt vissa verk, hvort sem eru vinnustörf, bókiðnir, samræður eða skemtanir.

það er vegur til sannarlegs heiðurs, að vera afbragðsgóður.

Heimili lagamannanna eru bygð á höfðum heimskingjanna.

Lærdómur er prýði æskunnar, og hugsvölun ellinnar.

Frjálsræði undir góðri stjórn er skynsamlegasta frelsið.

Engir þola síður ójöfnuð, en ójafnaðarmennirnir.

Gull ætti aldrei að vera guð vorrar tilbeiðslu, heldur þjón góðgjörðasemi vorrar.

Ekkert gjörir fávísan mann eins hlægilegan, eins og að vilja hafa við mikilfeng orð.

Náttúran er ánægð með lítið, en kröfur óhófsins eru óseðjandi.

Enginn hlutur er svo fólginn, að tímalengd og sannleiki ekki leiði hann í ljós.

það er sannur friður, að hafa frið við dygðina, en eiga í ófriði við ódygðina.

Ekkert rírir ágæti lærdómsins meir, heldur en að tildra honum fram af gorti.

þeir, sem hælast mjög um góð kaup, þurfa sjaldan að hrósa sjer af of mikilli ráðvendni.

Sem þú ætíð við manninn fyrir fram, og líð honum aldrei að láta þig ráða kaupi hans.

Gjörðu þjer aldrei far af því, að sýnast vitrari eða lærðari, en hinir fjelagar þínir;

en eigi skaltú heldur gjöra þjer upp fávizku, því það er fyrirlitlegt.

Dygðin er heilbrigði og fríðleiki sálarinnar.

Mótlætið fær ljeðan sárasta brodd sinn hjá óþolinmæði vorri.

Þú mátt reiða þig á það, að sá maður getur ekki verið dygðugur sjálfur, sem aldrei þykist hafa hitt fyrir dygðugan mann.

Það er eitthvert töframagn í sambúð kvenna, sem hefur lag á því, að spekja hina óstýrilátu, sefa hina hroðalegu og herða upp hina huglausu.

Sæll er sá, sem á trúan vin í neyð sinni; en sælli er þó hinn, sem eigi þarf vinar við.

Almenningsálitið eitt er lögmætur grundvöllur stjórnarinnar.

Hlynntu að frækorni viðkvæmninnar, og mun það bera blómlega ávexti góðgjörðaseminnar.

Hlustaðu ekki á neitt illt um vin þinn, og talaðu ekki neitt illt um óvin þinn.

Þekkingin getur orðið að heimsku, ef greindin vakir ekki yfir henni.

Sá, sem lifir samkvæmt skynseminni, verður aldrei snauður; sá, sem hagar sjer í hvert sinn, eins og lundin býður honum, verður aldrei ríkur.

Það er ekki staðurinn, sem manninn gjörir merkan, heldur maðurinn, sem staðinn gjörir svo.

Sá, sem ekki vill heyra áminningar vinar síns, verðskuldar atyrði óvinar.

Þungar stunur ýfa sár hjartans, og blíðleg orð hugga harmþrungin anda.

Það er heimska að minnast á það, sem vjer gleymum sjálfum oss fyrir.

Þolinmæði er bezta ráð bæði við ást og ógæfu.

Vizka prýðir auðlegðina og skýlir fátæktinni.

Ef þú vilt stæra þig, þá stærðu þig af góðverkum.

Sá, sem þiggur velgjörning, ætti æfinlega að vera minnugur þess, ef hann annars vill heita góður maður.

Sá, sem gjörir velgjörning, ætti að gleyma því óðar, ef hann ekki vill votta óverulund.

Varastu bóklestur um nætur, ef þú vilt halda heilsu þinni og skilningi.

Það er torveldara að yfirbuga girndir, en yfirvinna óvini.

Sá, sem vill höndla ánægju, verður fyrst að leita að sakleysi.

Losti er leiðarsteinn til eymdar og eyðileggingar.

Kjassaðu hvorki, nje kepptu við konu í viðurvist ókunnugra; annað er heimska, hitt vitleysa.

Iðjulaus og útsláttarsöm stúlka er viss með að verða óþrifin kona, og kaldlynd móðir.

Kvennamaður elskar aldrei; og þar sem enda ljettúð ræður, þar er sjaldan ástin hrein og heit.

„Fljótur að eta, fljótur að vinna“ er sögn eins gömul og fjöllin; og aldrei var neitt orð sannara.

Það, sem er elskað af hjarta, það er syrgt af hjarta.

Að kefja niður bráða reiði, er bæði karlmannlegt og guðdómlegt.

Öfundin er eins og eldingin, það á bezt við hana svartasta myrkur.

Dragðu það ekki til annars dags, sem gjöra átti í dag.

Horfðu æfinlega framan í menn, þegar þú ávarpar þá, og tíðast, þegar þeir tala til þín.

Engin stór borg getur til lengdar verið í friði: eigi hún ekki í stríði út í frá, þá hefur hún fjandmenn heima fyrir.

Ekkert innrætir oss betur hóglæti, en sú reynsla, að vjer erum sjálfum oss ónógir.

Hreinskilnin bætir úr mörgum brestum.

Að styggja ekki, er hið fyrsta stig til að þókknast.

Dylgjur gjöra saklausustu verk tortryggileg.

Það er engin sú staða til í lífinu, að eigi sje árvekni húsmóðurinnar í öllum búskaparefnum ómissandi, til þess að heimilinu vegni vel.

Án þreklyndis áformar enginn stórræði, og afrekar enginn neitt það, sem erfiði er í og áhætta.

Hjartað hefur ekki eins opnar dyr fyrir neitt, eins og fyrir smjaðrið, því það svæfir alla verði, eins og sumir töfradrykkir.

Maður fyrirgefur svik, en gleymir þeim aldrei.

Sá er mesti ógæfumaðurinn, sem álítur sjálfan sig að vera það.

Smjaður er eins og svikknir peningar;

þeir gjöra þann snauðan, sem tekur þá í heimgjald.

Hreinskilin játning situr sakleysi næst.

Þó að samvizkan sofi stundum, meðan allt leikur í lyndi, þá er hún samt viss með að vakkna, þegar móti fer að blása.

Hugsýki er eytur mannlegs lífs; hún er undirrót margra synda, og því fleiri eymda.

Öfund og reiði stytta lífið, og hugsýki gjörir mann gamlan fyrir tímann.

Ef þú uggar ekki um þig, þá eigðu það víst, að tjón er í nánd.

Iðjuleysi er þungbært, óhófsemi skaðleg, fávizka óþolandi.

Engin dygð er eins minnislaus og þakklátsemin.

Það bregst aldrei, að reykur sá, sem leggur upp frá því hjarta, er brennur af frekum girndum, gjörir bæði að myrkva og rugla skilninginn.

Hversu opt bregða menn utan á sig gleðibrosi, mitt í því að hjartað andvarpar inni fyrir! Þó að heimskan hlægi, bítur samt sökin.

Heimska er illur ókostur; en sú er heimskan vest, sem aldrei getur þolað heimsku hjá öðrum.

Ótti og reiði eru tvær bleiður: látir þú undan þeim, leita þær á; veitir þú viðnám, víkja þær undan.

Margir glata ánægju af því, sem þeir eiga, vegna þess að þeir sækjast eptir því, sem þeir eiga ekki.

Vaninn getur enda gjört það sætt, að neita sjálfum sjer um ánægju.

Gjörðu vin þínum vel til, svo þú vinnir hann enn betur.

Þurlyndi er opt ranglega álitið sem stórmennska, og feimni sem fávizka.

Heimurinn leikur vest á þá, sem leika mest við hann.

Margur prýðir leiði þess, sem hann ofsókti og öfundaði í lifanda lífi.

Hlutirnir hafa svo breytilegt útlit, að stöðugasta manni liggur opt við að mótmæla sjálfum sjer

Sá, sem ætlar sjer að syrgja hvað eina, sem hann verður að sjá á bak, fær aldrei að lifa rósama stund.

Ánægjan af verkinu samsvarar ekki ætíð ávinningnum af því.

Hjegómamennirnir hlusta á hræsni eigin hugarburðar, og halda að það sje rödd mannorðsins.

Hvorki auður nje upphefð láta hjartanu í tje hvíld, heldur rósöm samvizka og hreinskilinn andi.

Um sár má binda og orð verða fyrirgefin, en sá, sem ljóstar upp leyndarmáli vina sinna, missir alla tiltrú.

Vjer ættum ekki að trúa óvinum vorum til þess, sem trúlegt er, nje tortryggja vini vora um það, sem ótrúlegt er.

Það bregst aldrei, að illgjarnir hrekkir gjöra þeim erfitt fyrir, sem gefa sig við þeim.

Heimurinn er þeim gleðileikur, sem hugsa um hann, en hinum sorgarleikur, sem finna til hans.

Sá, sem hefur glatað tiltrú sinni, lifir dauður meðal manna.

Sá, sem ekki vill baka sjer svívirðing, má ekki heldur gjöra hana.

Öfund er fremur sjúkleiki en löstur, því enginn mundi vilja dragast með hana, ef hann gæti að gjört.

Enginn hlutur fer svo vel úr hendi í flýti eða geðshræringu, að eigi megi betur fara án þess.

Það er miklu hættulegra, að hjegómaskapur vinni á hjartað, en vín á höfuðið.

Draumarnir eru uglur, sem hjátrúin hengir á leppa sína.

Sá, sem vanrækir skyldur sínar af eintómri leti, liggur flatur fyrir einhverri hinni ljettvægustu freistingu.

Þegar skálkar falla í þá snöru, sem þeir leggja fyrir aðra, verða þeir hvorttveggja, og að makleglcikum, bæði sjálfum sjer til minnkunar, og öðrum til athláturs.

Áköf og framhleypin sjálfselska gjörir einn að annars óvin, og stefnir ávalt að því, að sundra öllu fjelagslífi.

Ekkert er fyrirlitlegra, en að líta mikið á sjálfan sig; enda gjöra það ekki nema heimskingjar.

Af annara brestum læra hyggnir menn að laga sína eigin.

Tilgerðin spillir öllum kostum bæði sálar og líkama.

Fátæktina vantar sumt, óhófsemina margt, ágirndina allt.

Rjettlæti er auðkenni dygðarinnar, stafur friðarins og stytta heiðursins.

það eru engin hyggindi að vera aumur í dag, þó vjer kunnum að verða það á morgun.

þú getur engan hlut átt betri, en góða konu, engan hlut heldur verri, en vonda konu.

Hræsnin spillir snemma hreinskílni æskunnar, og afskræmir fegurstu blóm andans.

Vjer ættum aldrei að tala, til að þókknast sjálfum oss, heldur þeim, sem hlusta á oss.

Auðurinn ætti að látast inn í hús vor, en ekki í hjörtu.

Hygginn vinúr og hæglátur er meira verður, en allt of ör og ákafur.

því meiri sem þrautin er, þess meiri frægðin að vinna hana; góðir stýrimenn fá mestu frægð sína frá stormum og stórsjóum.

Dygðin er vissasti gæfuvegur, hún sykrar alla nautn, og er bezta bót við öllu böli.

Óþakklátur maður fagnar ekki nema einu sinni af velgjörningnum, en þakklátur maður allajafna.

Hafðu ekki tvennt undir í einu, því það spillir hvað fyrir öðru.

Sá, sem ekki kærir sig um litla yfirsjón, drýgir aðra meiri.

Láttu ekki augað hlaupa yfir eyrað, nje tunguna eins langt og fæturna.

það er hin mesta yfirsjón að hugsa, að maður hafi sjálfur enga.

Sá, sem þiggur velgjörning, ætti aldrei að gleyma því; sá, sem gjörir góðverk, ætti aldrei að minnast þess.

Gamansemin er eins og eldglæring, sem brýst í gegnum skýflóka, og blikar rjett í svip

Glaðlyndið viðheldur eins konar dagsbirtu í sálunni, og lætur hana njóta eins og stöðugrar og ævarandi heiðríkju.

Bið ekki annan um það, sem þú mundir neita sjálfur um, værir þú beðinn.

Ef vjer rækjum kurteysina burt úr heiminum, þá tæki hún með sjer helming allra dygða, sem þar eru fyrir

það hjarta, sem vináttan hefur vermt og blíðkað, þolir ekki iðuglegar ávitur.

Talaðu ekki meira við ókenndan mann heimuglega, en þig gildir einu hvar fer.

Ef þú vilt lifa í friði og ró, þá máttu ekki heyra, nje sjá, nje segja annað, en gott eitt.

Hvað meinlausar sem glettur þínar eru, þá er samt ekki gott að gjöra vana af glettum.

Sá hefur drjúg inngjöld, sem fá hefur tilefni til útgjalda.

Að launa illt með góðu, er höfuðprýði kristilegrar breyttni.

Ekkert fjelag getur beðið meira tjón, en að glata grundvallarreglum sínum.

Varastu það stærilæti, er þú missir fyrir af gagnsmunum góðra ráða.

Íhugaðu, áður en þú talar. Íhugaðu, við hvern þú talar. Íhugaðu, hvernig þú talar. Íhugaðu, um hvað þú talar.

það er ekki nóg að taka að sjer gott málefni, vjer eigum líka að fram fylgja því með þeirri hjartans alúð, sem gott mál á ætíð skilið.

Vinn af alefli, meðan þú ert ungur, þú munt vilja fá hvíld, þegar þú eldist.

Ávítaðu aldrei vin þinn, án þess að tala honum vel til um leið.

Flýtir er fátækleg afsökun; hafðu tíma fyrir þjer, og gakk svo vel frá verki þínu.

Hugsaðu eins og hyggnir menn, en talaðu eins og almenningur.

Dulinn hugur og djarft útlit fer óhult leiðar sinnar gegnum lífið.

Sjerhverjum manni ber að leita sjer heiðurs, ekki með því að rífa aðra niður, heldur með því að hefja sjálfan sig upp.

það er eyðslumanninum eins ógeðfelt, að halda reikning yfir útgjöld sín, eins og syndaranum, að rannsaka breyttni sína.

Enginn söngur er inndælli eyra þínu, en rödd þess, sem kallar þig velgjörðamann sinn.

Hvers eins eigið hrjóst er vissasti geymslustaður leyndarmála hans.

Vinn svo á meðan þú ert ungur, að þú hafir huggun af að minnast þess, þegar þú verður gamall.

Óhófsmennirnir lifa til að eta og drekka, en hygginda og hófsmenn eta og drekka til að lifa.

Hlýðið heilræði, Íslendingar! Látið bænina stíga upp, svo náðin komi niður, nú á þessari hálfu öld, sem í hönd fer!

---



